*Þorsteinn Gíslason:*

# NOKKUR KVÆÐI.



REYKJAVÍK.

PRENTSMIÐJA REYKJAVÍKUR.

1904.

## GEISLI OG SKUGGI.

Ofar sólin skín þó ský
skundi um himinsalinn;
geisli og skuggi skjótast því
í skollaleik um dalinn.

---

## SKIN OG SKÝ.

Á himni leikur skin við ský,
sko hve heimur nú er fagur;
mararspegli mætast í
morgun, kvöld og nótt og dagur.

---

## VORVÍSUR.

(Í samkvæmi í Khöfn).

Þeir ljósklæddu dagar, sem líða nú hjá
og leingja í sífellu sporið,
þeir halda í norður um hafdjúpin blá
með hitann og sólina' og vorið,
að leysa þar snjó
úr leiti og mó,
sem lækirnir flytja svo út í sjó.

Og Frón okkar gamla með fjöllunum há,
sem fönnunum ennþá er vafið,
það dreymir nú vorið um vogana blá
og væntir það komi' yfir hafið,
að laufga hvern lund
og græða grund
og geislunum strá yfir fjöll og sund.

Og vorið þar heima er ákaft og úngt;
það á líka mikið að gera.

Því fönnina og jöklana fellur oft þúngt
úr fjöllunum okkar að bera.
En burtu flýr snær
og grundin grær,
í geislunum vaknar tún og bær.

---

## FUGLASAUNGUR.

Svo glóði sólin glatt í dag,
jeg gat ei lesið neitt.
Það saung í hug mjer sólskinslag,
mjer sýndist alt með gleðibrag,
og veðrið var svo heitt.

Og loftið var svo ljett og blátt.
Mig lángaði' út í skóg,
að sjá, hve þar væri kvikt og kátt;
þar kvökuðu fuglarnir allir dátt,
en ljósið í laufinu dó.

Þeir súngu vorsins ljúfa lag,
þess lánga, fagra saung;
þeir súngu' um glóandi sumardag,
þeir súngu' um skógana heilan brag
og dægrin ljós og laung.

Þeir súngu ennþá margt og margt
um maí, sól og dag;
þeir súngu' um eingjanna sumarskart,
þeir súngu' inn í hug minn ljósið bjart
og vorsins ljúfa lag.

Og áfram, sýngið, sýngið þið
hinn sumarlánga dag
um vorsins unað, ást og frið
með ykkar dillandi skógarklið.
Og þökk fyrir daginn í dag.

---

## VORHIMINN.

Þú ert fríður, breiður, blár
og bjartar lindir þínar;
þú ert víður, heiður, hár
sem hjartans óskir mínar.

---

## VORVÍSA.

Ennþá laufgast eikargrein,
ennþá ljettist sporið,
ennþá litkast akurrein,
ennþá heilsar vorið.

---

## LANDSÝN.

Lyftist strindi, lækka sund,
líta' upp tindar víða.
Það er yndi öldugrund
undan vindi' að ríða.

---

## ÚTSIGLING.

### 1. MÁRINN.

Ýfist sjárinn. Byrðing ber
burtu Kári stríður.
Hægt af báru heim í sker
hljóður márinn líður.

Heimað snú þú þreyttur, því
þjer er búin sængin
á malarhrúgu í klettakvi,
að kvíla lúinn vænginn.

### 2. FJALLKONAN.

Fellur kögur fjalls um brún,
felur lögur hlíðir.
Hverja sögu' er segir hún
syngur í bögur víðir.

## FYRSTU VORDÆGUR.

Ljósið loftin fyllir
og loftin verða blá.
Vorið tánum tyllir
tindana á.

Dagarnir leingjast
og dimman flýr í sjó;
bráðum sýngur lóa
í brekku og mó.

Og lambagrasið ljósa
litkar mel og barð.
Og sóleyjar spretta
sunnan við garð.

Þá flettir sól af fjöllunum
fannanna strút;
í kaupstað verður farið
og kýrnar leystar út.

Bráðum glóey gyllir
geimana blá.
Vorið tánum tyllir
tindana á.

---

## GUÐRÚN.

Grjet hún, grjet hún,
grúfði höfði
er sólgyðjan tjaldaði sali.
En oft um nætur
reis ein á fætur
við stjörnurnar stóð hún á tali.

Ein skín stjarna
yfir austurbrún,
vel að vegum gætir;
kunnuglega
kjör þín les
hyggið himins auga.

Andvökunótt
eina fyrri
gægðist sú stjarna' inn um glugga,
og las þá hvert
þitt leyndarmál
þjer úr andvaka auga.

Sorgarnótt
þegar svefninn flýði
gægðist hún aftur um glugga
og heyrði á
þau harmaorð
sem var að svæflinum hvíslað.

Minningum þínum
þú margvafðir
um þá einu stjörnu.
Inst þjer í sál
á einverustundum
leit það uppheims auga.

Til eru þau orð
er túnga þín
skilfi, ef skyldi hún mæla.
Um þínar huldustu
hugrenningar
talar nú stjarna við stjörnu.

Dráp þú ei skirrðist
ef dauðlegur vissi
það er þú í gröf vilt grafa.
En auga því
fær þú aldrei lokað
sem annara svefn opnar.

Vjelaþræði,
er þú af viti ófst
og lagðir um leynda stigi,
máttu nú sjá
við mánaskin
rekja svartir svipir.

Skjálfa geislar
við skararbrún,
læðist feigð eftir fönnum.
Djúp ríkir þögn,
dómar eru kveðnir
strángir á stjörnu-þíngi.

---

## GRAFSKRIFT.

Það vantaði síst að hann hugsaði hátt,
og hann hefði mátt koma að notum.
Hann byrjaði á ýmsu, en endaði fátt,
og allt lá það hálfgert, í brotum.

Frá barnæsku var hann með gleraugu grá,
en glerið var efalaust svikið,
því hvar sem hann ráfaði rak hann sig á,
var rauður og blár fyrir vikið.

Og áform hans, þau voru ósmá og mörg,
en ætti' hann sjer vegi að skapa,
þá klifraði' hann ætíð í ógeingis björg,
var alltaf að detta og hrapa.

Og hvergi í lífinu festu hann fjekk,
þó flæktist hann víða um álfur;
hann rjetti þeim hönd sem að haltrandi gekk,
en haltraði allramest sjálfur.

Hann skildi' ekki lánsins og lukkunnar spil
og lífsseglið kunni ekki að vinda,
var fugl, sem ei þekkti á fjöðrunum skil,
eða fiskur, sem lærði' ekki að synda.

Og gæska og miskunn fór gjafarans blíð
um garð hans hið efra og neðra
uns þreyttur á æfi, sem aðeins var stríð,
hann álpaðist til sinna feðra.

Í guðs nafni' í jörðina grófu hann menn
við gleymsku og myrkursins skorður.
En liðurinn hrasar um leiðið hans enn:
hann liggur í suður og norður.

Og nú, þá hann liðinn er dauðans í dá,
hann dreymir und sverðinum grænum
um hálsbrotinn val undir hömrunum blá,
og hákarl, sem drukknaði' í sænum.

---

## EFTIRMÆLI.

Hann bar eins og tindarnir höfuðið hár
yfir heiðar og sveitirnar lands,
með járnharðan skallann sem jökullinn grár,
sem jelin, er þjóta um fjallanna gjár,
svo ísköld voru' andartök hans.

Og brúnirnar þúngar um bergstalla rið
og brosið sem túnglsglott á fönnum.

Um kríng var blásið og eldbrunnið svið,
en allir sem nálguðust stöldruðu við.
Hann ógnaði öllum mönnum.

Hann mændi við himin í ellinni einn
og ennið var rifið af stormum
og herðarnar lúnar, þó hjeldi' hann sjer beinn,
og hjartað, þó lifði' hann, sem kolbrunninn steinn
og smogið af eitruðum ormum.

En sögunnar funandi frægðanna sól
sló fannköldum bjarma' yfir rauminn,
sem aldrei, þó skúraði, andlitið fól
og aldrei, þó stormaði, leitaði' í skjól,
en klauf á sjer stormana og strauminn.

---

## TINDURINN OG ÞOKAN.

Þó glitri sumargeislar frá
glæstum jökulskalla
niðar þrumir þykk og grá
þoka' að bökum fjalla.

Skottið úfið leggur lágt.
— Leiðir súg um tindinn.
Máske hann snúi í aðra átt.
Ekki' er að trúa' á vindinn.

---

## HRAFNINN.

Hrafninn situr á hamrinum,
ber við loftin blá.
Horfðu ekki upp eftir hrafninum,
því honum má einginn ná.
En lágt flýgur krummi á kvöldin.

Hrafninn flýgur um aftaninn,
einginn vita má
hvar hefir hreiður hugurinn.
Hrafninn guðar á skjá.
Því seint flýgur krummi á kvöldin.

Það hefur grunað margan mann
og mörg er leitin gjörð
til þess að hitta hrafninn þann
í hræunum niðri' á jörð.
Því þar flýgur krummi á kvöldin.

Hrafninn uppi á hamrinum
hann má við því sjá,
að mörg eru högl í heiminum,
sem hröfnunum eiga' að ná.
Og því flýgur krummi á kvöldin.

---

## ÞRUMUR.

Drynja sköll í ský́a-höll,
skelfur völl'r und fæti.
Hrynja fjöllin ofan öll?
En þau tröllalæti!

Reynir þrótt við þursadrótt
Þór hinn óttalegi,
og margt á flótta labbar ljótt,
sem læddist hljótt um vegi.

Heyri' eg skelli' og skruggusmell,
— ský́in svella bólgin, —
með þrumuhvellum þúngt um fell
þramma Melludólginn.

## SIGLING.

Þó, stormvöktu bárur, þið streitist
við stefnið á skríðandi gnoð
og aldrei að eilífu þreytist
— jeg aldrei skal lækka í storminum voð.

Þið framundan hreykist og hrynjið.
Jeg hleypi ykkur glaður á mót;
þó drynjandi' á súðum þið dynjið,
þá dettið þið aflvana' í hyldjúpsins rót.

En fast upp í byrinn jeg beiti,
því borðið er hreint ekki veilt.
Frá strykinu' ei stefnunni' eg breyti
meðan stýri og mastur og seglið er heilt.

## ÖRNINN.

—

Örninn, hann flýgur svo hátt, svo hátt.
— Heiðskírt er loftið og fagurblátt
og silfurtær sjórinn undir. —
Hann sjer yfir fjöll og fjörð og ós,
— um fjallkollinn dansar sólarljós,
en niðri' á grundinni grætur rós —
um glóandi morgunstundir.

Hann hefur svo stóran, sterkan væng;
hann stígur svo snemma' á morgni' úr sæng
og höfði mót skímunni hreykir.
Hann heimsækir upptök þín, hreinasta lind,
hann heilsar þjer, nýrunni dagur, við tind,
hann drekkur í sólroð hinn síúnga vind,
sem svefni af landinu feykir.

Til þess að metta sitt megn og hug
til morgunsins sækir hann kraft og dug

og stál í vængina stinna.
Hann beinir flugi' yfir lög og láð;
hann lítur svo margt, sem er hvergi skráð.
Í loftförinni' háu, í leit eftir bráð
er leikur að tapa og vinna.

Um veglausan geim er hans vegur beinn;
hann, víkíngur loftsins, hann flýgur einn,
en hinir í stórum hópum.
Við fjörð og í dal er hann friðar án,
hans ferill um sveitina' er blóð og rán,
en ókleyfa bjargið er líf hans og lán,
svo lángt ofar dalsins ópum.

---

## VOR.

Sunnanvindur sumarhlýr,
sól og vor um allan dalinn!
Heilsar tindum himinn nýr,
huldan, sem í fossi býr

gígjustreing af gleði knýr;
grænkar meðan hlustar balinn.
Sunnanvindur sumarhlýr,
sól og vor um allan dalinn!

Af sjer hnjúkur hrímið þvær,
horfir upp í bláa salinn.
Neðar brekkan grænkar, grær,
gulli sól í voginn slær.
Fönnin grætur, fossinn hlær,
fyllir kvæðum allan dalinn.
Af sjer hnúkur hrímið þvær,
horfir upp í bláa salinn.

Yfir veg þinn, vorið nýtt,
vaxa blóm í hverju spori.
Allt sem fraus er aftur þitt,
allt sem kól er vermt og hlýtt.
Allt hið gamla' er aftur nýtt,
ýngt og prýtt af sól og vori.
Yfir veg þinn, vorið hlýtt,
vaxa blóm í hverju spori.

Himinhvelfing breið og blá,
blásin út af sunnanvindi!
Vonir mínar vængi fá.
Víða hvelfing, stór og há!
Upp um fjöll og út um sjá
æskan hlær á báru' og tindi.
Himinhvelfing breið og blá,
blásin út af sunnanvindi!

---

## GVENDUR OG GLÓI.

Hann Gvendur sat og Glói hjá;
þeir gættu báðir saman ánna.
Og Gvendur sat í grænni lág
með grautarask á milli hnjánna.

En Glói lá þar hægur hjá
húsbóndanum. Rakkinn væni

mjakaði sjer maganum á
og mændi eftir hverjum spæni.

---

Þetta' er dygðin, dreingur minn:
dilla skotti, hægur bíða.
Horfðu vel á hundinn þinn;
hann er að kenna sjálfum þjer að skríða.

Og vittu til, þín bíða bein
og bitar fram í skauti tíða,
blessun guðs og auðna ein,
ef þú bara lærir vel að skríða.

---

## SVARTI FUGLINN.

Þar sem ljósu laufin glóa
labbaði' eg út um græna skóga,
vildi þúngum leiða lóga.
Ljúfir saungvar bærðu grein.

Ofar sumarsólin skein.
Þessir saungvar sálu fróa.
Sól á laufin skín.
—Í kvöld verður kvæðið
kveðið til þín.

Um græna skóga gekk jeg víða,
geislastrauma sá jeg tíða
nið'rum bjarkalaufin líða.
Ljettir saungvar bærðu grein.
Sú var röddin heið og hrein.
Ofar veðrið brosir blíða,
blessuð sólin skín.
—Í kvöld verður kvæðið
kveðið til þín.

Skundaði' eg fram í skógi þraungum,
skyggndist um í leynigaungum.
Þar sem ljósið lá í spaungum
lúrði svartur fugl á grein.
Sá hefur galið mörgum mein.

Á meiðinum blunda mun hann laungum
meðan sól skín.
—Í kvöld verður kvæðið
kveðið til þín.

Þrösturinn ljek á ljetta streingi,
liðaðist sólargeisli' um eingi.
Í runninum sat jeg lánga-leingi;
ljóti fuglinn svaf á grein.
Sá hefir galið mörgum mein.
Dökkir skuggar vaxa' á veingi,
í vestri sólin skín.
—Í kvöld verður kvæðið
kveðið til þín.

Sólin hnje að svölum ægi,
sveiftist skugga mörk og hagi;
þrestir hættu ljóðalagi,
leit upp svartur fugl á grein.
Sá hefur galið mörgum mein.
Sýngja gerir hann sína bragi

þá sólarljósið dvín.
— Í kvöld verður kvæðið
kveðið til þín.

Sefur niðri sól í ægi,
sigrar nótt um mörk og bæi.
Sýngur einn með sínu lagi
svartur fugl á skógargrein.
Í þeim saung er sorgin ein,
úr svörtu húmi seydd í bragi
á sinni veiku hrín.
— Í kvöld verður kvæðið
kveðið til þín.

---

## VIÐ HAFIÐ

Hún sveif þar yfir vogi
um sumar blíða nótt
og signdi brjóst og enni,
því þá var allt svo rótt.
Svo hvarf hún — svo hvarf hún
er geislinn glóði á bárum.

Og sólin skein um hlíðar,
hún dvaldi allan dag
í djúpi niðri' uns aftur
var komið sólarlag.
Þá rjetti' hún — þá rjetti' hún
þjer höndina' yfir hafið.

Og þúngur er fótur,
ef stíga skal frá strönd
og stikla' á báruhryggjum
í önnur fjærlæg lönd.

Því halt' þjer — halt' þjer,
en horfðu' ekki o'ní djúpið.

Þó vegur sýnist lángur,
þá vinnst hann undra skjótt.
Í vestri blikar roðinn,
frá austri kemur nótt.
Og sof þú — sof þú
þar sólin geingur undir.

## ÚR SÖGUNNI „ÁRNI“.

Eftir Björnstjerne Björnson.

---

### 1. Uppyfir fjöllin háu.

Undrandi stari jeg ár og síð
uppyfir fjöllin háu.
Auganu mætir þar ís og hríð.
Allt í kríng grasi vafin hlíð.
Ó, hve mig lángar yfir.
Kemst' aldrei meðan þú lifir?

Örninn ber vængjanna öflugt slag
uppyfir fjöllin háu.
Þar teygar hann himinsins hreina dag,
hraðsiglir loftið með víkingsbrag.
Hátt yfir hömrum og ströndum
horfir mót ókunnum löndum.

Laufþrúngna eik, sem aldrei sjer
uppyfir fjöllin háu,
sprettur þá sól og sumar er,
situr ber þegar vetra fer, —
vorfuglar við þig hjala,
vita' ekki hvað þeir tala.

Hann, sem lángaði' í átján ár
uppyfir fjöllin háu,
en veit honum er sá vegur of hár,
verður minni hvert líðandi ár.
Finnar hvað fuglinn talar,
sem frjáls í laufinu hjalar.

Aulinn þinn litli, hvaða' afl þig dró
uppyfir fjöllin háu?
Suðurfrá betur bjóstu þó
í breiðara laufi, hærri skóg.
Ljærð mjer, sem ligg með hlekki,
laungun, en vængi ekki.

Út vil jeg, út vil jeg undralángt
uppyfir fjöllin háu.
Hjer er svo þreytandi, þraungt og strángt
og því brýst hugurinn úngi lángt
háveginn, láttu' hann hafa' hann,
hamrana aldrei grafa' hann.

Jeg veit að einn leiðir alla hátt
uppyfir fjöllin háu.
Og máske' er nú hurð þín í hálfa gátt,
herra minn, guð, þar á einginn bágt.
Læs þó enn ljóssins heima,
lof mjer um stund að dreyma.

2 Móðirin.

Taktu' að þjer, dýri drottinn minn,
dreinginn við ána þarna,
og hjálpi' honum andinn helgi þinn
í himnavist góðra barna.

Straumnum er hála hellan und —
en haldi hann sjer fast við þína mund
fallinu frá þú verð hann
uns frelsandi heim þú berð hann.

Móðirin tærist af sorg og sút,
sjer ekki hvað honum líður,
hlustar við dyrnar, hrópar út,
heyrir ei neitt, en bíður.
Hugsar: hvað sem að höndum ber,
herra minn, guð, jeg treysti þjer;
barnið á Jesú að bróður,
hann bjargar því heim til móður.

### 3. Í SVEITINNI ER SKARKALI.

Í sveitinni er skarkali, í skóginum er ró;
þar skamma þeir hver annan, en hjer er sáttin nóg.
Þeir rífast ekki og karpa um kirkjuna hjer,
því kirkjuna í skóginum einginn niður sjer.

Í skógnum hjer er rólegt, þó skimi haukur frár
og skyggnist um, hvar leyni sjer titlíngur smár,
þó örninn hremmi smásaman úngviði' í kló,
af því honum leiðist hin sífelda ró.

Ein er hríslan fallin, en önnur visna má;
únglambið beit refur, er sólin hnje í lá;
úlfur náði refnum, og alt komst það í lag,
því úlfurinn lá helskotinn fyrir næsta dag.

Margt er það sem skeður í skóg og í dal;
skilur nokkur manneskja bjarkanna tal?
Mig dreymdi að jeg kæmi til djöfulsins inn,
sá dreing, sem hafði höggvið með öxi föður sinn.

### 4. Húfan.

Hún erfði' ekki úr ættmenna búi,
hún Ásthildur, silfur nje gull,

en húfu úr innlendri ull,
— bandhúfu bláa með skúfi.

Óvönduð húfa úr ull
með ekkert skraut eða fóður,
en minning um föður og móður,
— skín miklu skærar en gull.

Átján árin líða,
aldrei hún með hana gekk:
Á mínum brúðarbekk
með húfunni skal jeg mig skrýða.

Æskuárin dvína,
aldrei hún með hana gekk:
Til himins á brúðarbekk
jeg hef með mjer húfuna mína.

Elli ber hratt að höndum.
Húfuna geymdi' hún enn.

Tvímælin takast af senn:
Við aldrei fyr' altari stöndum.

Hún fór til að skoða skúfinn,
skalf eins og visið blað,
gáði' í hinn gamla stað.
Þá var hver þráður fúinn.

5. GÓÐVIÐRISSTUND.

Það var eina glóbjarta góðviðrisstund,
jeg gat ekki setið heima;
jeg gekk út í skóginn, í ljósan lund
og lagðist og fór að dreyma.
En maurarnir flykktust úr fauska-býng
og flugurnar sóttu' að mjer allt í kring.

Það var eina glóbjarta góðviðrisstund,
jeg gat ekki setið heima;
þá lagðist jeg sýngjandi' í grasið á grund,

um góðviðrið ljet jeg mig dreyma.
Þá leit jeg þar orm, svo ljótan durt,
sem leyndist í grasinu, — og hljóp þá burt.

Það var eina glóbjarta góðviðrisstund,
jeg gat ekki setið heima;
jeg lagði fram bátnum, fór lángt út á sund
og ljet hann með straumnum sveima.
En nú stakk mig sólin í nef og kinn;
það er nóg af því góða, svo flúði jeg inn.

Það var eina glóbjarta góðviðrisstund,
jeg gat ekki setið heima;
jeg klifraði' um skóginn svo ljettur í lund
og lángaði' að fljúga' út um geima.
Þá hraut á mig ormur, sem hrundi þar,
mig hryllti, jeg vissi ei' hver skrattinn það var.

Það var eina glóbjarta góðviðrisstund,
jeg gat ekki setið heima;

jeg lagðist við fossinn og fjell í blund
og fannst þar svo gott að dreyma.
Jeg drukknaði, en geislarnir glóðu' yfir veg.
—En gerðirðu kvæðið?—Nei, ekki er það jeg.

6. Á JÓNSMESSUNÓTT.

Hún Una hoppaði út í dans
til unnustans.
Hann heilsaði' og gall við með gleðibrag:
„Hæ, góðan dag!"
Og allir súngu fuglarnir lystugt sumarlag:
„Á Jónsmessunátt
geingur dansinn dátt.
En fljettar hún svo sveig? Um það syngjum við fátt.

Hún fljettaði sveig af blómum blá:
„Mín brúnljós smá!"
Hann tók hann í fyrstunni', en fleygði honum þó:

„Far vel!“ — Hann hló
og saung og kvað og hoppaði hlæjandi' yfir mó.
„Á Jónsmessunátt“ o. s. frv.

Hún fljettaði annan; sem gull hann gljár:
„Mitt gula hár!“
Hún fljettaði' og reið þar rósina inn:
„Mín rjóða kinn!“
Hann tók það sem hún rjetti' honum og roðnaði
það sinn.
„Á Jónsmessunátt“ o. s. frv.

Og hreinum liljum hún hnýtti' í bönd:
„Mín hægri hönd!“
Og blóðrauðan sveig hún batt við þær:
„Tak báðar tvær!“
Hann tók á móti báðum, en flutti sig svo fjær.
„Á Jónsmessunátt“ o. s. frv.

Og hvervetna tíndi' hún í sveiginn sinn:
„Öll, sem jeg finn“.

Hún fljettaði vot á vánga' og brá:
„Ó, veldu þá!“
Hann tók þá líka í hönd sjer, en hörfaði' óðar frá.
„Á Jónsmessunátt“ o. s. frv.

Hún fljettaði blómin á bleikum teig
í brúðarsveig.
Hún fljettaði hratt, þá varð höndin blá:
„Ó, horfðu á!“
En þegar hún svo vjek sjer við, þá var hann hvergi að sjá.
„Á Jónsmessunátt“ o. s. frv.

Hún leitaði' að blómum á bleikum teig
í brúðarsveig.
En nú var allt visið um völl og börð
og veðrin hörð.
Svo fljettaði' hún úr blómum, sem fundust hvergi' á jörð.
„Á Jónsmessunátt
geingur dansinn dátt.
En fljettar hún svo sveig? Um það sýngjum við fátt.

7. Björkin.

Björkin stóð hnarreist með hnapp og með blað,
þá hrópaði frostið: „Jeg eyðilegg það!“
„Nei, blessað bíddu' í nótt,
því blómin spretta skjótt“,
sagði björkin, varð lafhrædd og líknar sjer bað.

Og fuglarnir súngu við blómskrúðið bjart.
„Nú blæs jeg“, kvað stormur og skók hana hart.
„Nei besti, bíddu enn,
því berin spretta senn“,
sagði björkin og rjeð sjer í vindinum vart.

Svo þroskuðust berin við geislanna glóð.
„Ó, gef mjer“, bað stúlkan svo úng og svo rjóð.
Og björkin beygði grein:
„Já, blessuð taktu' þau ein“,
og hneigði sig niður og hálfbogin stóð.

### 8. Í SKÓGNUM.

Í skógnum gekk dreingurinn dægrin laung,
gekk dægrin laung;
þar heyrði' hann undrandi' á einhvern saung,
á einhvern saung.

Og hljóðpípu' úr trjánum hann tegldi og skar,
hann tegldi og skar,
að vita hvort hljómurinn væri þar,
hvort væri' hann þar.

Og hljómurinn hvíslaði' í laufi og laut,
í laufi og laut.
Ef dreingurinn hlustaði hljóp hann braut,
þá hljóp hann braut.

Ef svaf hann, við koddann sveimaði' hann,
þar sveimaði hann.
Og ljettur með ást yfir ennið rann,
yfir ennið rann.

Svo vildi' hann ná 'honum, vaknar fljótt,
hann vaknar fljótt.
En hljómurinn hvarf út í húm og nótt,
í húm og nótt.

Taktu mig drottinn þar einnig inn,
þar einnig inn.
Því hljómurinn töfrar huga minn,
huga minn.

Guð sagði: Veistu' hann er vinur þinn,
er vinur þinn,
þó náirðu' honum ei nokkurt sinn,
ei nokkurt sinn.

Hinir flytja þig nokkru nær,
nokkru nær.
En þann sem þú eltir þú aldrei fær,
þú aldrei fær.

9. JEG ÆTLAÐI —.

Jeg ætlaði' að gera úr mjer afbragðsmann;
jeg ætlaði lángt burt, en veg ei fann.
Um alheimsins undur mig dreymdi,
en öllu í kríng jeg gleymdi.
Þá leit mjer stúlka' í augað inn,
svo aftur jeg varð að snúa:
því eftir það sælu ei fremri 'eg finn,
en í friði með henni' að búa.

Jeg ætlaði' að gera úr mjer afbragðsmann;
jeg ætlaði lángt burt, en veg ei fann.
Jeg vildi með stórmennum standa,
þeim stærstu í verki og anda.
Nú sje jeg hið dýrasta' af drottni ljeð
og dyggasta með sjer að bera
er ekki að teljast þeim mestu með,
en maður í reynd að vera.

Jeg ætlaði' að gera úr mjer afbragðsmann;
jeg ætlaði lángt burt, en veg ei fann.

Í fjarlægð jeg fara vildi,
mjer fannst hjer mig einginn skildi.
Er sá jeg hana, mjer sýndist[1] þá
með svip og viðmóti hlýu
hver maður horfa mig aftur á
og allt vera fætt að nýu.

# SPÁNSKAR NÆTUR.

Eftir Börge Jansen.

## 1. Fríða.

Lát hljóma háa streingi
og hörpu kveða ljóð.
Er hún ekki fríð, hún Fríða,
og fótsmá, hvít og rjóð?

Fuglarnir sýngja saungva
og sólin á blómin skín.
Komdu nú kæra, blíða
og kysstu mig, Fríða mín.

Úr bláhvolfi blika stjörnur
og berin gefa vín,

en þú berð af öllum öðrum
inndæla Fríða mín.

Augun þín dökku, djúpu
þau dylja töfraeld.
Nú dansarðu, fagra Fríða,
fyrir mig dans í kveld.

Lífið er fagurt, Fríða,
því, Fríða, þú elskar mig,
og þessvegna sýng jeg nú saunginn
og sýng fyrir eina þig.

### 2. Elvíra.

Sorgirnar hugann hjúpa,
hjartanu blæða sár;
drottinn minn láttu drjúpa
dögg yfir þurrar brár.
Guðsmóðir, lof mjer að gráta.

Hugga mig, tárið hreina,
himinsins besta gjöf,
uppsprettulindin eina
á auðninni fram að gröf.
Guðsmóðir, lof mjer að gráta.

Lindin er laungu þrotin,
ljúfustu blómin köld,
fokin i burt og brotin,
því bið jeg nú dag og kvöld:
Guðsmóðir, lof mjer að gráta.

3. Granada.

Frá stirndum himni starir
hver stjarna' og ástvin kýs,
og bleikur máninn brosir
við blíðri næturdís.

Nú hnígur boði' að báru,
við brjóst sín leggur fold

með ást hvert dýr sem andar,
hvern orm í dökkri mold.

Og upp að helgum himni
sjer hallar þögul jörð,
og yfir öllu' er friður
og einglar halda vörð.

Nú kyssir daggardropinn
í dalnum blað á rós.
Nú elskast allt, sem lifir,
við inndæl næturljós.

---

## FYR SÚNGU NÆTURGALAR—.

**Eftir V. Stuckenberg.**

---

Fyr súngu næturgalar þar við geingum.
Nú garðsins fuglar allir sitja hljóðir,
en eingisprettan ein um fornar slóðir
slær fábreytt lag, sem fögnuð vekur eingum.

Hvert augnatillit er nú kalt og þurt,
sem fölur geisli fálmi' um haust á skýi
og fái' ei brotist gegn, þótt á hann knýi,
en viti', að kraftur vorsins er á burt.

En samt í dagsins ómum allt í kríng
er eins og jeg í sálu minni finni,
að mitt og þitt sje tvinnað í einn tón,

svo hreinan, skæran. Eingin umbreytíng
því öllu, sem við geymum bæði í minni,
skal nokkru sinni ná að vinna tjón.

---

# ÍSLANDSMINNI.

(Á þjóðhátíð Seyðfirðinga 2. ágúst 1900).

—

Þó sitthvað ami landi' og lýð
skal liðka forna streingi
og sýngja ljóð um sumartíð,
er sóley hlær á eingi.
Ef glóey skín einn glaðan dag
þá gleyma vetri stráin,
og fuglinn sýngur sumarlag
í sóltitrandi bláinn.

Sú hátíð sem við höldum nú
skal herða, festa bandið,
sem teyngir hug með traustri trú
og tryggð við gamla landið.
Á nýrri öld með nýum dug
skal nýar brautir finna,
með nýum orðum, nýum hug
og nýum kröftum vinna.

## JÚNÍDAGUR Í NORÐRI.

—

Nú lít jeg í norðrinu' hinn ljósa dag,
hann lifir þar fjöllunum á;
nú sofnar hann ekki við sólarlag,
en situr þá nóttinni hjá
og kemur ei blundur á brá.
Hann vakir í norðrinu vorin laung
við vatnanna klið og fuglasaung,
og loftin eru' ekki leingur þraung,
en ljett og víð og há.

Þar ber nú nóttin bláan kjól,
á brjóstinu döggvaða rós.
Á bak við hafið hún faldinn fól,
hin flöktandi norðurljós.
Nú á hún annað hrós.
Hún sveimar hin hljóðu sumarkvöld

er sólinni vaggar báran köld
og þagnar í dölunum fuglafjöld
með deginum yst við ós.

---

## HÚSBRUNI.

---

Það stóð þarna' á grundinni hólnum hjá
og hló út úr fjallaskugga,
með fána á staung og fálkann á;
hve fallegt og úngt var það til að sjá
með glampandi þil og glugga!

En haustnótt eina, þá húm var svart,
um hálsa, um grundir og voga
þar gerðist á svipstundu blossandi bjart.
Frá bæjunum næstu kom fólkið margt.
Þá stóð allt í ljósum loga.

Þú spurð, hvort það væri vátrygt.—Nei.
Hvort væri' ekkert fjemætt þar grafið,
sem geymdist?—Í rústirnar gróf jeg ei,
en gekk strax í burtu, stje á fley
og hjelt svo lángt útyfir hafið.

Svo bygði þar annar bæinn sinn,
en bjó að því skammar stundir.
Hann var ekki tryggur völlurinn.
Þar vaknaði gamli eldurinn
og jafnaði garðinn við grundir.
Hann gaus upp í rústunum—undir.

---

## HEIMFARARMINNI.

(Í stúdentagildi í Khöfn, þegar Björgvin Vigfússon cand. jur. fór heim að afloknu prófi).

Björgvin! jeg býst við þig lángi,
er Baunverjinn skilar þjer,
nú helst til að fá af því frjettir,
hvað forsjónin hugsi sjer.

Fyrst verðurðu sýslari „settur“;
en síðan mun embættið veitt.
Þar verðurðu breiður og bústinn
og brjóstið hvelft og feitt.

Og sífellt að ummáli eykstu
og áliti, meir og meir.
Jeg ætla þú komist ofar
þá amtmaðurinn deyr.

Og hugsanlegt hygg jeg vera,
að hærra flytjistu' enn.
Því dómarar deyja líka
fyrir dugandi lagamenn.

Svo vex þjer aldur og auður
og ávexti starf þitt ber.
Þá kemur frá kónginum líka
einn krossinn á brjóstið á þjer.“

En hvernig sem allt þetta endar
með embættin, krossana' og það,
þá vaxi þjer vinsæld og heiður
og vegsemd á hverjum stað.

Í dimmu' eru forlögin dulin
og drottinn einn veit hvernig fer.
En hvernig sem heimurinn hallast
skal hamíngjan fylgja þjer.

---

## LÁT KOMA VOR —.

Lát koma vor með klið og saung
(en kveðja þennan vetur).
-- Með fuglakvæðin fögur, laung
og fossanið um heiðagaung.
Lát koma vor með klið og saung,
en kveðja þennan vetur.



Mig leingir eftir sumri' og sól;
(mig sýkir þessi vetur).
—Að horfa' á græna grund og hól,
sjá grasið lifna', er áður kól.
Mig leingir eftir ljósi' og sól,
en leiðist þessi vetur.

---

## SUMARKVÖLD.

Líður lángt á daginn;
lindin suðar köld,
döggvast hlíð og haginn,
hnígur sól í æginn.
Nú er komið kvöld.

Skuggi úr leyni læðist,
líður hlíðum frá;
draumur dalsins fæðist,
dýru gulli klæðist
gnípan himinhá.

---

## MORGUN Á SJÓ.

Treystir segl og siglu,
súða-, hrýtur úði,
gandinn, votur vindur,
veltur hrönn og eltir.
Lýstur eygló austan,
upp rís þvegin úr legi,
skærum geislaskúrum
skjálfandi yfir gjálfur.

---

## ÞÍNGVÍSA

(um lángorðan þíngmann).

Mikið djásn er þvogli þinn;
það veit guð á hæðum.
Þú þurkar innan þíngsalinn
með þínum laungu ræðum.

---

## JÚNÍ.

Ljómar sjór af sólarloga,
sjest ei ský á víðum boga,
ljettfætt dansar vor um voga,
vatnadísir lángan brag
sýngja, — vorsins sigurlag.
Sín á milli tindar tala,
teyga geisla blómin dala,
grösin hvísla á grænum bala,
— sjerhvað lofar leingstan dag.

